# Dagsbrún.

*Mánaðarrit til stuðnings frjálslegri trúarskoðun.*

*Ritstjóri: MAGN. J. SKAPTASON.*

I. | GIMLI, MAN. MAI 1893. | 5.

OPT hefir það verið sagt og er að líkindum allvíða sagt enn þann dag í dag, að efi um guðdómleg sannindi sé ein hin mesta synd, er hugsast getur, menn hafa verið hraktir burt úr landi, menn hafa verið á báli brenndir, ef það hefir orðið uppvíst, að þeir hafa haft þenna efa; en þó er því svo varið, að margur maðurinn getur ekki látið það vera, hversu mikið, sem hann reynir til að stríða á móti þessum efa. Ef hann er ekki sannfærður um, að eitt sé svo eða svo, þá efast hann um það, optlega vill hann af alhuga komast að hinu sanna, hann leitar og leitar, og það er einmitt efinn, sem kemur honum til að leita; það er efinn, sem er aðalhvötin fyrir hann, að leita hins sanna. Mér er t. d. ómögulegt að trúa því, að Guð hafi farið að láta sól og tungl standa kyrrt til þess að þóknast eða hjálpa jafn vondum manni og Jósúa og jafn grimmri þjóð og Gyðingar voru í þá daga, til þess að þeir gætu líflátið sem flesta, en afleiðingin af þessum efa mínum er sú, að ritningin raskast og er ekki lengur bókstafleg. Hún verður ekki lengur guðdómleg, heldur mannleg. Hvernig sem ég reyndi til, væri mér ómögulegt hinsvegar að treysta eða elska Guð, sem þannig væri. Ég get ekki elskað Guð, nema ég finni það og trúi því, með sjálfum mér, að hann sé góður, að hann sé betri, en ég er. Þessi efi, sem ég ræð ekki við, hann kemur mér til að taka þá veru, sem ég hugsa mér að sé allt hið fegursta, fullkomnasta og besta, fram yfir nokkrar prentaðar eða skrifaðar bækur, sem ég finn og get sýnt, að eru fullar af mótsögnum, sem margar hverjar hafa verið skrifaðar mörg hundruð árum seinna, en menn allt til þessa hafa ætlað, og ekki af mönnum þeim, sem þær eru eignaðar. Þetta hafa allt verið talin guðdómleg sannindi um margar aldir, en efinn, sem vakti mig og eins hefir vakið

margan manninn, kemur mér til að leita, og þegar ég fer að leita, þá hlýt ég, að kasta því, sem guðdómlegu, er mér í bernsku var talin trú um, að væri jafn-heilagt og Guð sjálfur. Þessi efi hjá mér, eða hverjum þeim, sem hafa hann, er ekki annað, en ást til sannleikans; hann hreinsar hina æðstu veru af glæpum og löstum og brígslum, sem á hana eru borin af rammtrúuðum bókstafsmönnum. Hver, sem þannig efast, hann gengur fram til að verja skaparann sökum, sem á hann eru bornar. Sannarlega er það svo, að þeir,sem bókstafnum trúa þeir, sem bókstafinn viðurkenna, eins og öll hin lúterska kirkja gjörir (sjá Augsborgarjátninguna), þeir gjöra allir skapara himins og jarðar að einhverri ófreskju. Hann er eptir bókstafnum grimmur, heiptúðgur, hefnigjarn, þarf að vera að bæta um verk sín hvað eptir annað; hann verður eptir því ófullkomnari, en mennirnir almennt eru; öllum þessum áburði kemur þessi efi manni til að hrinda, og því er hann eigi synd, heldur hin stærsta dygð. Hann sekkur engum niður í víti, heldur leiðir alla til Guðs ríkis.

Það er almennt álit manna, að mikill þorri presta efist um, eitt eður annað atriði í trúmálum eitt eður annað af því, sem alþýða hefir álitið jafnheilagt og Guð sjálfan. Kirkjudeildirnar ensku hér vestra liggja í hörðustu deilum innbyrðis um þessháttar mál nú sem stendur og allbúið, að svo sé hjá Íslendingum, sem öðrum þjóðum; —en þá kemur fram spurningin um það, hvað prestur sá skuli gjöra, sem þannig er ástatt fyrir; og hún kemur reyndar eins fram þótt presturinn efist ekki sjálfur, þar eð hann má vita það, ef hann hugsar nokkuð um það, að allur heimurinn efast í þessum málum, að heita má. Á hann að hepta hjá sér hvötina, að leita sannleikans og láta sem hann heyri ekki, hvað fram fer í kringum hann, eða á hann að loka munni sínum og þegja, ef hann sér, að eitthvað er bogið við sína gömlu barnatrú. Hann er ráðinn þjónn safnaðarins, að fræða söfnuðinn um guðdómleg sannindi. En hvernig getur hann kennt söfnuðinum það, sem guðdómlegan sannleika, sem hann veit, að ekki er það? Eða, er nokkur sá söfnuður til, sem vilji halda prest og launa honum til þess, að skrökva að sér? eða heldur söfnuðurinn prestinn til þess, að presturinn skuli viðhalda hinum gömlu, lágu og óvirðulegu hugmyndum um Guð? að hann skuli leiða söfnuðinn hálfblindandi þá leið, sem báðir vita að er röng? Væri svo, þá væri þetta hið öfuga við alla sanna guðsdýrkun. Því hver sem ekki virðir sannleikann, hann dýrkar ekki Guð. En efanum getum vér ekki útrýmt, hann er einn hluti sannleikshvatarinnar, sem skaparinn hefir lagt í sálir mannanna, til þess að

leiða, þá til meiri fullkomnunar og meiri þekkingar. Blessaður veri því þessi efi, sem ein hin besta Guðs gjöf; hann kemur oss til, að leita sannleikans, hann lætur oss finna nýjar og nýjar dásemdir skaparans, hann veitir hjörtum vorum hærri og veglegri hugmyndir um vorn himneska föður, hann hvetur oss til að leita, hins sanna og góða og fagra; hann veitir hjörtum vorum frið og ró í ávöxtunum, sem verða af þessari leitun, en ávextirnir verða þeir, að skaparinn verður fegurri, elskulegri, heilagri, fullkomnari og betri, en kirkjan hefir kennt oss, og þær hugmyndir lypta oss upp til hans, hinar fyrri hugmyndir drógu oss niður, því þær voru lægri en vér erum sjálfir, þessar skulu hefja oss upp, og hvetja oss, til að stunda allt, sem er fagurt og gott og dýrðlegt og elskulegt.

Hvað ritninguna snertir og efann um eitt eður annað atriði hennar, eina eður aðra setningu hennar, eitt eður annað hryðjuverki ð, sem hún ber skaparanum á brýn, þá sér maður fljótt, að þess konar efi getur ekki verið nein dauða-synd, er steypi mönnum í eilífa glötun, er menn hugsa til þess, að ritningin er *bókmenntasaga* Gyðinga-þjóðar, besta og æruverðasta bók, en þó sú bók, sem menn hafa fullan rétt á að rannsaka, prófa og leggja undir dóm skynseminnar og bera saman við aðrar samskonar bækur annara fornþjóða, sem margar hafa það fram yfir ritningu vora, að þær eru miklu eldri, enn hún.

---

# Hugleiðingar um ritninguna.

[Framhald.]

Davidson segir á þessa leið: „hvað snertir meðferð Esra (458 f. Kr.) á Mósesbókunum, þá er óhætt að segja það, að hann bætti við þær; —bjó til ný boð, nýja siði í stað hinna eldri og jafnhliða þeim. Hann tileinkaði Móses margt, sem var miklu seinna ritað.“ (Canon of the Bible bls. 20—21.) „Vér vitum að gamlir spádómar voru gefnir út um herleiðinguna og rétt á eptir. Menn, sem höfðu spádómsgáfu, skrifuðu í nafni hinna miklu spámanna, bættu í bækur þeirra nýjum köflum, eða skrifuðu þær upp og löguðu þær. Hinir 35 kapítular Esajasar og 50. og 51. kap. í Jerem. eru

sönnun þess.“ (Canon of the Bible bls. 44—45.) „Að vísu mun það áreiðanlegt, að eptir að búið var að ákveða, hverjar bækur gamla Testam. skyldu helgar teljast, fóru menn að gjörast mjög nákvæmir í uppritun bókanna, töldu jafnvel stafina og orðin í bókunum, til þess að sjá, hvort ekkert hefði úr fallið, en þetta var ekki fyrri, en um árið 100 f. Kr. í fyrsta lagi, og á tímanum á undan voru menn ekki svo nákvæmir, það sýna hinar, því nær, ótölulegu mótsagnir og villur bókanna.

Ef einn eður annar skrifaði upp bók eina að nýju, þá breytti hann henni og bætti við hana, sem honum sýndist. Ef hann hafði fyrir sér tvær bækur, er hann taldi hafa jafnt gildi, þá tók hann útdrátt úr báðum og tengði svo kaflana saman eptir því, sem honum þótti við eiga.“ Svo segir prófessór Smith.

Þannig er allt á reiki og verður ætíð á reiki, hvenær bækur ritningarinnar hafa verið skrifaðar. Og þótt vér kæmumst að vissu um, hvenær þær voru fyrst gjörðar úr garði, sem nú eru þær, þá kæmi upp aptur spurningin um það, hvenær voru þá þær bækur fyrst ritaðar, er þessar voru skráðar eptir? Vér verðum því að reyna að fara, sem næst vér getum um aldur bókanna án þess, að hafa fulla vissu hvenær hver ein var rituð.

Þá er næst athugandi hinn áætlaði *aldur hinna elstu og yngstu bóka hins gamla og nýja Testamentis.*

Fyrrum ætluðu menn, að Móses hefði skrifað hinar fyrstu fimm bækur gamla Testam., nálægt 1500 árum f. Kr.. En eptir því, sem menn hafa rannsakað það betur og betur, þá eru menn farnir að hverfa frá þeirri skoðun. Mjög fáir, af þeim, er leggja stund á þesskonar rannsóknir, ætla, að nokkur þessara bóka sé rituð fyr, en á ríkisárum Manasses (696—641 f. K.) eða Jósía (636—609 f. Kr) þó að sum atriði siðalögmálsins kunni að vera eldri. (Sbr. Kuenen *Register of Israel,* II. bindi bls. 152, 153, 191 og 307.) En bækur þær, sem að líkindum eru elstar eru spámennirnir Amos, Hósía og Mikka, og munu þeir hafa ritað bækur sínar á áttundu öld fyrir Krist.

Hinar aðrar bækur gamla Testam. voru ritaðar seinna, allt frá þessum áður greinda tíma og til 100 árum f. K., sumir segja 400, en mjög er það óvíst.

Hvað nýja Testam. snertir, þá ætla sumir, að bækur þess hafi verið ritaðar frá 50—100 árum e. K., en aptur ætla aðrir, að nokkrar bækur þess hafi ekki verið ritaðar fyr, en 175 árum e. K.

Í stuttu máli að segja, þá er það, að minnsta kosti, víst, að

hinar ýmsu sagnir, æfisögur, skáldrit, spádómar, bréf eða bækur ritn ingarinnar hafa verið full 1000 ár að skapast. Hefir sumt af ritum þessum verið samantekið á hinum fyrstu menningar árum Gyðingaþjóðar, þegar þjóðin fór fyrst að gefa sig við bókmenntum, en aptur hafa aðrar og það meiri hlutinn af bókum ritningarinnar ekki verið skráðar fyrri, en þjóðin hafði kynnst hinum ýmsu austurlanda þjóðum og menning þeirra, svo sem Púnverjum, Assýrum, Persum, Grikkjum og Rómverjum.

Ef vér förum nú að bera aldur ritningar vorrar saman við aldur hinna annara helgu bóka þjóðanna, þá sjáum vér fljótt, að enginn hluti ritningar vorrar getur hafa verið skrifaður fyr, en *nokkur hundruð árum seinna, en hinir elstu kaflar Veda bókanna og Zend Avesta,* sem hinir bestu austurlanda fræðingar segja, að í seinasta lagi hafi verið skrifaðar 1000—2000 árum fyrir Krist. Dr. Haug segir, að hin elstu kvæði Veda-bókanna geti ekki verið rituð seinna, en 2400 árum fyrir Krist (1600—1700 árum á undan hinum elstu bókum ritningar vorrar), sjá ennfremur Whitneys Oriental and Linguistic Studies bls. 21,73, og Max Mullers Chips I. B. bls. 11.

Aptur sjáum vér, að allt nýja Testamentið og máske nokkrar bækur gamla Test. er ritað seinna, en nokkur önnur hinna helgu bóka þjóðanna, að undanteknum Kóraninum og Eddum norðmanna, Kóraninn er skrifaður á 7du öld e. Kr..

*Þá eru rithöfundar bókanna.* Þetta hafa hinir bestu fræðimenn verið að rannsaka nú í hin síðastliðnu 50 ár, en lítið orðið ágengt. Um fullan helming bókanna í ritningunni vita menn ekkert hver hafi ritað þær, eða hvenær þær hafi verið skrifaðar. Eins og áður hefir verir skýrt frá eru margar þeirra samdráttur úr eldri bókum. Raunar eru flestar þeirra tileinkaðar einum eða öðrum höfundi. En vér þurfum ekki langan tíma eða mikla rannsókn til þess að sjá það, að það þýðir ósköp lítið, þó að nafn einhvers höfundar standi við eina eður aðra bók. Það þarf meira til að sanna það, að hún sé rituð af þeim, sem menn hafa eignað hana. Hinir nýrri fræðimenn, svo sem Eichhorn, De Wette, Ewald, Davidson, Kuenen og hinir frægustu ritdómarar aldarinnar hafa ljóslega sýnt það að flestar hinar markverðari bækur gamla Testamentisins hafa verið ritaðar af fleirum en einum höfundi, hver þeirra; og opt er það, að bók ein er rituð af tveim eða fleiri mönnum, sem lifa sinn á hvorri öldinni.

## BÆKUR GAMLA TESTAMENTISINS.

Hvað hinar 5 bækur Mósesar snertir, þá er þegar búið að gjöra það ljóst, að Móses getur ómögulega verið höfundur þeirra, að minnsta kosti ekki í því formi,sem þær eru í nú. Það er áreiðanlegt, að þær eru samdráttur teknar saman af fleiri höfundum. Ritningar fróðir menn þykjast, að minnsta kosti kenna þar þrjá höfunda og þrjú aðgreind rit, er þeir nefna hið eldra elohiska, hið yngra elohiska og hið jehoviska rit. Segir Davidson rithöfundur, að hið elsta jehoviska skjal geti ómögulega verið eldra en árið 1000 f. Kr. og Ewald ætlar, að hin elsta sögulega frásaga í Móses-bókunum geti ekki verið eldri, (sjá Ewalds Hist. of Israel I. B. bls. 63—96) og sjáum vér þá, að því nær 500 ára tímabil liggur á milli daga Mósesar og þess, að bækur þær voru samdar, er segja frá gjörðum hans. Saga Mósesar hefir því hlotið að ganga mann frá manni,sem munnmælasaga um fleiri hundruð ár. En nú segir 1. bók Mós. frá atburðum, er ske áttu 300—2500 árum fyrir daga Mósesar. Hvort ætla menn, að sú saga hafi átt að ganga í munnmælum öld eptir öld um þúsundir ára? eða ætla menn, að feðurnir gömlu hafi stungið niður hjá sér punktum á minnisblöðum, sem Móses svo hafi safnað saman. En þá verða menn að gæta þess, að Gyðingar þekktu ekkert stafrof fyr, en um eða eptir daga Mósesar og var þó ófullkomið, því að í það vantaði hljóðstafina.

Álit þeirra manna, er best hafa rannsakað austurlandamál og austurlandafræði er það, að allar hinar 5 bækur Mósesar hafi verið skráðar í því formi, sem þær eru í nú af rithöfundi eða rithöfundum, er lifað hafa einum sex eða sjö hundruð árum seinna, en Móses. En, hverjir þeir rithöfundar hafi verið, getum vér aðeins getið oss til. Stöðugt vex efi manna á því, hvort það sé nokkuð í öllum þessum 5 bókum Mósesar, er menn með nokkurri vissu geti honum eignað, jafnvel tæplega tíma þeim, er hann lifði á, að undanteknum hinum 10 boðorðum, þó í styttri mynd, og þrem eða fjórum brotum öðrum.

Ætla menn að hið fyrsta, sem ritað hafi verið hjá Gyðingum séu hin „*tíu orð*“ eptir Móses, er seinna voru gjörð að hinum tíu boðorðum, sem vér höfum og þó í tveim útgáfum, er ekki ber alveg saman sjá 2. bók Mós. 20 kap. og 5. bók Mós. 5. kap. —Svo er það og mjög líklegt að ýms lagaboð og siðareglur megi annaðhvort tileinka Móses sjálfum eða samtíð hans, enn fremur áfangastaðina í

4. bók 33. kap., lofsöng Maríu systur Arons 2. bók Mósesar, sem þó að líkindum hefir verið styttri í fyrstu en lengdur seinna. Þá er enn lofsöngurinn yfir falli Hesbonborgar 4. bók Móses 21. kap. 27—30. versi, og er þetta allt í ritningu vorri, er verið getur frá tímum Mósesar. Svo segir Davidson. —Þá er það og ljóst, að 5. bók Mósesar er rituð af öðrum höfundi, en hin 1. eða 2. eða 3. eða 4. og að höfundur 5. bókar Mósesar sé yngstur þeirra allra.

Jósúabókin, Dómarabókin, Samúelsbækurnar og Konungabækurnar eru samtíningur af eldri ritum. Ætlar Davidson að rithöfundur hinnar 5. Mósesbókar hafi lagt á þær hina síðustu hönd.

Kronikubækurnar, Esrabók og Nehemía virðast upprunalega hafa verið ein bók og ekki gömul, fráleitt eldri en 400 árum f. Kr.; rituð 136 árum eptir að Gyðingar komu úr herleiðingunni, en eigi þekkja menn nafn þess, er ritað hefir.

Esrabók hefir að líkindum verið rituð um sömu mundir—af til vill á Persalandi. Er höfundur bókar þeirrar óþekktur og bókin mjög óáreiðanleg í sögulegu tilliti.

Hver skrifað hafi Jobsbókina eru menn í mjög miklum efa um og eins um hitt, á hvaða tíma hún hafi verið rituð. Að líkindum hefir hún verið rituð einhverntíma á dögum Jósúa um 600 f.Kr., að fráskildum einstökum greinum, er seinna hefir verið skotið inn í hana. En ekki vitum vér neitt, hver er höfundur hennar.

Sálmarnir hafa skrifaðir verið af ýmsum mönnum, allt frá Davíð og niður til daga Makkabeanna, eitthvað 175—100 árum fyrir Kr.. Eigi vita menn með neinni vissu hve marga þeirra Davíð hafi kveðið; en hitt er víst, að þeir eru mjög fáir. Davíð hefir verið manna hagorðastur af Gyðingum og hefir því verið eignað miklu meira í þeirri grein, en honum bar, rétt eins og þeim Esajas og Jeremías voru eignaðir hinir og þessir spádómar, sem þeir áttu ekkert í, eða Salómon orðskviðir þeir, sem hann aldrei hefir skrifað, eða Móses lögmálið, sem fyrst var ritað mörgum hundruðum ára eptir daga Mósesar.

Orðskviðir Salómons eru að líkindum teknir saman af ýmsum mönnum, einum 4. eða 5. og hafa fengið búning þann, sem þeir nú eru í, á dögum Esekíasar konungs. Ekki er hægt að segja hve mikið af orðskviðunum sé eptir Salómon, en bókin hefir verið eignuð honum sökum þess, að hann hefir átt meira í henni en aðrir.

Lofsöngurinn, eða ástarkvæðið, hefir Salómon að líkindum ekki skrifað, þótt það máske sé ritað nálægt tíma hans.

Prédikaransbók segir Kuenen að áreiðanlega sé rituð eptir

herleiðinguna eptir 536 f. Kr. (Salómon uppi um 1000 f. Kr. ) og getur hún því ómögulega verið eptir Salómon.

Harmagráturinn eða hin 5 sorgarljóð eru kvörtun yfir hinu bágloga ástandi Júdaríkis og Jerúsalem, er Nebúkadnesar hafði lagt Júda undir veldi sitt um 600 f. K., og eru þessi 5 sorgarljóð eignuð fimm sérstökum höfundum.

Hvað bækur spámannanna snertir þá hafa menn meiri vissi um höfunda þeirra, en hinar fyrri bækur ritningarinnar, þótt menn séu í efa um höfunda að sumum þeirra.

Flestum, ef ekki öllum, kemur saman um það, að sjálfsagt tveir, ef ekki fleiri séu höfundar að spádómsbók Esajasar. Síðari hlutinn frá 40. kapítula telja menn áreiðanlega, að hafi ritaður verið af óþektum spámanni nálægt lokum babylónsku herleiðingarinnar um 536 f. Kr. og getur því ekki verið eptir Esajas, sem átti að hafa verið uppi um 760 f. Kr.. Sama er og að segja um 36.—39. kapítula, er getur herferðar Sennakeribs á hendur Júdaríki, er skeði hálft annað hundrað árum eptir daga Esekíasar. *Þó* hafa um enga af bókum spámannanna verið jafndeildar skoðanir og um Daníel. En nú þykir það fullsannað, að í staðinn fyrir að hafa verið rituð við lok herleiðingarinnar, um 536 f. Kr., þá getur bók sú ekki verið skrifuð fyr, en á tímum Makkabeanna, eða 175—100 árum f. Kr.. Sést það á þessu, að mikið af spádómum gamla Test. er skrifað löngu *eptir*, kanske fleiri hundruðum ára eptir, *að viðburðir þeir fóru fram, er um var spáð.*

---

## BÆKUR NYJA TESTAMENTISINS.

Þá eru bækur nýja Testamentisins. Er því likt varið og gamla Testam. að menn eru einnig í miklum efa um höfunda guðspjalla þess og bréfa. Ef vér snúum oss að guðspjöllunum fyrst, þá verðum vér að gæta þess, að þau hafa *öll* verið rituð upp eptir munnmælum og sögusögn. Lengi var það, að menn kunnu ekki önnur deili á Kristi, á lífi hans eða kenningum, en þau, er gengu í munnmælasögum frá manni til manns. Var það einn til tvo mannsaldra, að ekkert var í letur fært af æfisögu hans eða kenningu. Sjálfur skrifaði hann ekki staf af nýja Test. og gjörði enga ráðstöfun til þess að nokkuð væri skrifað. Lærisveinar hans bjuggust einlægt við apturkomu hans á hverri stundu, ætluðu, að þá og þá kæmi sú stund

er þeir gætu verið samvistum við hann aptur og væri því ekki nein sérstök þörf á að skrifa upp kenningar hans.

En manna á milli gengu hinar og þessar sögur um einn eður annan atburð í æfisögu Krists, um starfsemi hans í Galíleu, ferð hans til Jerúsalem, dvöl hans í borginni og loks um dauða hans á krossinum. Þannig gengu og kjarnyrði hans og dæmisögur mann frá mann i. Af þessu sjáum vér að í raun og veru getur ekki verið um neina sérstaka höfunda að tala að guðspjöllunum. Guðspjöllin eru öll í heild sinni og hvert út af fyrir sig nokkurskonar uppdráttur af lífi Krists, safn, er ótalmargir hafa lagt hver sinn skerf til, en þar eð safn þetta hefir ekki verið skrásett fyr, en 30—70 árum eptir dauða Krist, þá hefir augsýnilega um allan þennan tíma safnast heilmikið hýði utan um hinn sögulega kjarna. Hinir ýmsu atburðir í lífi Krists hafa verið færðir í breytilegan búning eptir hugmyndum þeirra, er með fóru. Einstöku atriði hafa getað gleymst því það vitum vér að eptir 40—50 ár er minni manna farið að sljófgast, nýjum atriðum hefir verið viðaukið, orðum, setningum og viðburðum kanske snúið við meira eður minna. Það gengur svo æfinlega,þegar verið er að smíða sögu um eina eður aðra þjóðhetjuna, það verður opt mjög erfitt eptir á, að greina að söguna sjálfa og viðaukann sem sögumennirnir hafa bætt inn í hana.

„Hin fyrstu tvö guðspjöll hafa verið endurbætt optar en einu sinni,“ segir *Bible of Young People.* En um hið þriðja segir höfundurinn sjálfur í formála sínum, að *margir* hafi tekið sér fyrir hendur, að færa þessa hluti í frásögur,“ en sjálfur safnar hann saman, raðar niður og lagar söguna í hendi sér. En hvort rithöfundur þessi hafi nú verið Lúkas, eða hvort þeir Matteus og Markús hafi skrifað guðspjöll þau, er þeim eru eignuð, eða hvort guðspjöllunum hafi verið breitt, eptir að hinn fyrsti rithöundur hafði skrásett þau, það eru menn í miklum vafa um og mun að líkindum seint skýrast.

Hvað snertir 4. guðspjallið, Jóhannesar-guðspjallið, þá þekkja flestir Íslendingar til þess, að um það hafa verið og eru enn mjög miklar deilur. Það er hið eina guðspjall, sem nokkuð hefir verið deilt um á íslenskri tungu, en það þykjast menn vita fyrir víst, að Jóhannesar guðspjall og Opinberunarbókin er ekki ritnð af sama manni. Hafa margir þegar til forna álitið Opinberunarbókina ritaða af villumanninum Cerinthus.

Þá er Postulanna-gjörningabók og eru flestir á því að hún sé

að meiru eður minna leiti samtíningur og eins eru menn í vafa um það hvort Lúkas hafi skrifað hana eða einhver annar.

Svo koma bréf Páls, og eru sum þeirra vafalaust eldri en guðspjöllin, þó að einhver brot af guðspjöllunum kunni að hafa verið skrifuð áður. Um mörg þessara bréfa þykjast menn hafa áreiðanlega vissu að Páll hafi skrifað þau, en þó eru sum, sem menn eru í miklum vafa um. Í öðru Thessalonikubr. 2. kap. 2. versi má sjá það, að þegar á dögum Páls hafa fleiri bréf gengið undir hans nafni, en hann hefir viljað kannast við. Hebreabréfið þykast menn alveg vissir um að Páll hafi ekki skrifað. Vísindamenn, sem þeir Baur og Zeller telja Pál eigi höfund að fleirum, en 4 bréfum, bréfunum til Rómverja 1. og 2. Korinthubréfinu og Galatabréfinu.

2. Péturs pistil 2. og 3. Jóhannesar pistil, Júdasar pistil og Opinberunarbókina hafa menn lengi verið í miklum vafa um hverir hafi ritað.

Nú kemur til skoðunar, *hvernig menn þessir hafi verið*, er ritað hafi þessi bréf og bækur og guðspjöll ritningarinnar. Voru þeir fullkomnir, heilagir, innblásnir? eða voru þeir upp og ofan eins og menn almennt gjörast? Ef dæma skal af ritum þeirra, þá höfðu þeir mjög mismunandi hæfilegleika, voru á mjög misjöfnu menntunarstigi, með mismunandi siðferðislegri þroskun. Þeir sýna alla framrás og breytingarstig menntunar Gyðinga um þúsund ára tíma. Í ritum sínum sýna þeir allar þær breytingar, sam andi mannins tekur á 1000 árum. Opt er það, að ein bókin neitar því, sem önnur fullyrðir, bannar það, sem önnur býður.

Sem sýnishorn á því að bókum þessum ber ekki saman má taka eitt dæmi af ótal mörgum:

Sá, sem gjörir náunga sínum áverka, honum skal gjöra hið sama, sem hann hefir hinum gjört; meiðsli, fyrir meiðsli, auga fyrir auga, tönn fyrir tönn. 3. bók Mós. 24. 19, 20.

Auga þitt sjái ekki aumur á honum, líf komi fyrir líf, auga fyrir auga, tönn fyrir tönn, hönd fyrir hönd, fótur fyrir fót. 5. Mós. 19. 20.

Gjaldið engum illt fyrir illt. Rómv. 12., 17.

Slái einhver þig á hægri kinn þína, þá bjóð honum einnig hina. —Ég býð: elskið óvini yðar, blessið þá, sem yður bölva, gjörið gott þeim sem hata yður, og biðji ð fyrir þeim, sem rógbera yður og ofsækja. Matt. 5. 39 og 44.

## *MISMUNANDI STIG Í GUÐSHUGMYNDINNI.*

Ef vér byrjum á hinum fyrstu bókum ritningarinnar og lesum aptur eptir, þá sjáum vér mikla breyting á hugmyndum Gyðinga um Guð. Hinir fyrri rithöfundar gamla Testam. láta Guð ganga um meðal manna, tala við þá, vera búinn líkama eins og maður, hann er látinn glíma við einn af feðrunum, eta kálfskjöt og kökur með öðrum (Jakob og Abraham). Hann er látinn reyna sig í töfrum við hina aðra Guði, hann reiðist, verður afbrýðissamur, iðrast, hann býður mönnum ýms svik og pretti, er jafn ófullkominn og maðurinn er, eða kannske öllu ófullkomnari. En eptir því, sem vér komum aptar í ritninguna, fara þessar hugmyndir um Guð að smáhverfa, og í seinustu bókum gl. Test. eru hugmyndirnar um Guð orðnar miklu veglegri, en framan af. Í nýja Test. komast þær á hið hæsta stig hjá Jóhannesi, Páli og Kristi; þá loks er farið að birta og dagur rennur, en þó ekki til fulls, því á meðan nokkur fordæmingardómur, á meðan nokkurt eilíft víti vofir yfir þjóðum og einstaklingum getur maður ekki sagt, að dagur sé runninn, hvað guðshugmyndina snertir.

(Framhald næst.)

---

—Hver, sem leitar Guðs, sem föður og vinar hann er á réttri leið; hann veit af hinni styrkjandi og leiðandi hönd föðursins, hann heyrir hina laðandi kærleiksríku og aðvarandi rödd hans. Guð kemur til hans; hvað þarf hann að óttast? Sjálfur Guð býr í hjarta hans.

---

—Gefum gætur að því, hvernig vér lifum, en látum það ráðast hvernig vér deyjum.

---

—Vér þurfum aldrei að óttast dauðann, heldur hitt, hvernig vér verjum lífi voru.

---

—Það er ekki satt, að maðurinn af náttúrunni sé syndarinnar barn. Af náttúrunni er maðurinn Guðs barn. Fyrir ófullkomleikann og sjúkleika sálarinnar verður hann syndarinnar barn.

---

—Ef vér skynsamlega viðurkennum lög Guðs í alheiminum og hlýðum þeim, þá breytum vér réttilega. [Savage.]

---

# Jebúsítar í Jerúsalem.

Þegar farið er að eigna Jósúa „*Jósúabókina*", þá reka menn sig á æði margt, er sýnir það, að hann hafi ekki getað skrifað hana fremur, en Móses Mósesbækurnar. Það er þá fyrst að bókin heldur áfram eptir dauða hans sjá 24. kap. v. 29, 30—33 og í 31. versinu er sagt, að „Ísrael þjónaði drottni meðan Jósúa lifði og þeir öldungar, sem lengi lifðu eptir hann og séð höfðu allt það, sem drottinn hafði gjört fyrir Ísrael." Hér er talað um viðburði, sem áttu að hafa skeð *löngu eptir* daga Jósúa. Í 8. kapítula 28. versi, er sagt, að „ Jósúa brenndi borgina Ai og gjörði hana að æfinlegri grjóthrúgu,sem *enn* sér merki til og i 29. versinu sama kap. er sagt, að menn hafi orpið haug mikinn af grjóti yfir Ai konung, sem þar sést *enn í dag*. Þetta hvorutveggja bendir á að ritarinn standi miklu nær oss í tímanum, en Jósúa. —Enn þá ljósara verður það þó af 15. kap. 63. versi þar segir: „Jebúsítana, sem í Jerúsalem bjuggu gátu Júda niðjar ekki útrekið; búa því Jebúsítar ásamt Júdabörnum í Jerúsalem til *þessa dags*." Nú er að finnna tíma þann, er Jebúsítar og Júda ætt bjó fyrst í Jerúsalem. Borgin hét upphaflega *Jebus* eða *Jebusi* og Gyðingar unnu hana ekki fyr, en á dögum Davíðs sjá 2. Sam. 5. kap.4—9 v. og1.Kron. 12.kap. 4. vers. Áður er hvergi talað um, að Gyðingar hafi unnið þá borg, enda er það einkennilegt, að þeir deyddu hvorki menn, konur eða börn, er þeir unnu hana, eins og á dögum Jósúa. Því þá mátti segja, að þeir dræpu allt, sem „lífsanda dróg." Grimmdin sú hin fyrri hefir nokkuð verið farin að sjatna í þeim. Nú hefir Jósúa átt að deyja nálægt 1426 fyrir Krist, en Davíð andaðist um 1015 og á hans dögum var borgin Jebús unnin og upp frá því kölluð „Jerúsalem". Látum það hafa verið um 1050 og þá sjáum vér, að bókin getur ekki hafa verið rituð fyr, en 4 1 1 árum eptir dauða Jósúa. Mætti fleira til týna, er sýni það, að bókin er ekki skrifuð af Jósúa.

# Athuganir við sköpunarsöguna.

Framhald.

## IV.

### *VERÐI LJÓS.*

Jafnframt hitanum kom fram enn undraverðari sköpun—ljósið. Þegar, er þessi hitagufa fór að dragast saman í þokumökk, þá hefir af því staðið birta nokkur, þótt dauf væri í fyrstu, en eptir því, sem samdrátturinn varð meiri, og hnötturinn þéttist, þá varð birtan skærari og skærari, þar til líkami þessi varð, sem kerfi af skínandi stjörnum. Í ótölulegar aldaraðir, eptir, að jörðin tók að veltast um geyminn, sem sérstakur hnöttur, hefir hún hlotið, að skína, sem sól, eins og vér í góðum sjónpípum sjáum, hvernig hin skínandi stjörnukerfi veltast í kringum hina afarmiklu sól, Síríus. En eptir því, sem jörðin kólnaði, varð þessi langi skínandi dagur myrkari og myrkari. Ljósaskiptin—færðust smátt og smátt yfir hana, og voru mínúturnar þar langar, sem þúsundir ára; en svo féll myrkrið yfir aptur.

Sköpun þessari var ekki lokið á hinum fyrsta degi, hún heldur einlægt áfram enn þann dag í dag. Já! meira að segja, þegar vér kveikjum á lampanum vorum á kvöldin, þá talar hinn skapandi andi, enn hin sömu orðin: „verði ljós", ekki með hrópandi raustu heldur með hinum þegjandi alheimslögum og er það engu að síður guðdómlegt en hið gamla boð. Prófessórinn, sem skýrir hin stuttu orð með mörgum orðum, og segir oss, hvernig hitinn gjöri kola-agnirnar lýsandi og veldur ljóssveiflum í loptinu, en þó getur hann ekki skýrt oss það, hvernig ljósið sé orðið til. Þrátt fyrir öll vísindin, er eðli ljóssins á lampanum jafn leyndardómsfullt og hið fyrsta ljós í sköpunarsögunni. Í hvert skipti, er vér kveikjum á ljósi er hið forna kraptaverk sköpunarsögunnar endurtekið.

Og hvílíkt kraptaverk er það ekki, þegar vér förum um það að hugsa. Þessar kola-agnir í gufunni voru smærri, en svo, að vér sæjum þær, en á augabragði mynduðu þær ljósið, sendu ljósstrauminn út um gluggann, yfir borgina og gjörðu það sýnilegt í mílu fjarlægð, áður en vér höfðum tíma til að taka burtu hendina. Hvílíkt furðuverk myndi oss eigi finnast þetta, ef vér sæjum það

aðeins einu sinni? En þó er það í rauninni miklu undraverðara fyrir það, að það endurtekst í hvert skipti, sem vér kveikjum á eldspítu.

Skoðum nú sköpunina í stærri stýl. Kola-agnirnar í hinum afarmikla hita hins *magnetiska*-straums, skína með enn þá skærara ljósi á rafmagns lampanum, fylla rúmið með ljósi og senda strauminn mílum saman út frá sér. Og ef vér höldum kalkmola í ofsahitanum af súr- og vatns-gasi (oxyhydrogen)þá sjáum vér hið gamla kraptaverk endurtakast. Loginn er þá að skapa vatn, en í vatnsgufinni „sveimar andi Guðs yfir vötnunum" eins og í hinni gömlu sögu og segir enn þá „verði ljós". Hinn glóandi kalkmoli minnir oss á aldirnar eða þær þúsundir ára, er jörðin glóði í hinu mikilfenglega *oxyhydrogen* báli, er skapaði höf jarðarinnar.

Enn skulum vér athuga ljósið, eins og það var skapað á hinum fyrri tímum með þrýstingu. Þegar stáli er slegið á tinnu þá flýgur undan neisti og eins er, ef vér sláum steinum tveimur saman. En yfir höfði oss snarar hin guðdómlega hönd þyngdarlögmálsins loptsteininum að gufuhvolfi voru og kveikir um leið ljós það er lýsir um einar 50 mílur, er steinninn þýtur um loptið. Þegar því ljósin lýsa í næturmyrkrinu, þegar loptsteinninn dregur ljósbogann eptir sér um gufuhvolfið,þá eru enn hin gömlu sköpunar orð endurrituð í hinu myrka djúpi.

En nóttin líður og „dagurinn" er skapaður. Hin hraðfara jörð skríður fram úr myrkri næturinnar. Dagsbrúnin svífur um loptið og „greinir ljósið frá myrkrinu" eins og í hinni gömlu sögu, sólin rennur upp og ritar þvert yfir hvert landið á eptir öðru með gullnu letri orðin gömlu „verði ljós".

Og hvílíkt ljós er það eigi! Calcíum ljósið er í samanburði við sólina sem dökkur blettur, því hér er um meiri öfl að ræða, en vér getum mælt. Með því að strjúka við eldspítu getum vér lýst upp lítið herbergi, en þrýsting hinnar skapandi handar þyngdarlögmálsins kveikir ljós það, er lýsir upp helming jarðar í einu úr feikna mikilli fjarlægð, og það svo vel að þúsund kertaljós á einu borði mundu ekki lýsa eins vel stofu eina. Og þó fær jörðin og hnettir þeir allir til samans, er um sól vora snúast ekki einn milliónasta hluta af ljósi sólar. Dagurinn skín látlaust um rúmið í allar áttir, milli jarðstjarnanna, og sendir ljósstrauminn langt út í geyminn.

Þetta sólarljós er eilíflega ný sköpun. Dagsljós það, er þú les bók þína við, var skapað eptir að þú settist niður. Þessi undrakraptur var búinn til í sólinni og fluttur 90,000,000 mílna frá henni allt að glugga þínum, allt á 8 mínútum.

Enn þá undraverðara er það sem vísindin segja oss af brautum

þeim og leiðum er ljósið fari. Vísindamaðurinn segir oss frá geislum þess, sem eru furðanlegri en nokkur járnbraut; frá ljósölduhríngnum, sem er undarlegri en nokkurt vagnhjól; frá hinum endalausu ljóslestum svo ferðmiklum, að þær fara, nærri helming leiðarinnar yfir þvera Ameríku, áður en maður geti deplað augunum. Og ekki fara lestir þessar einungis beint frá sólu, heldur kastast þær aptur frá hverjum hlut á jörðunni í allar áttir, ein brautin liggur þvert yfir aðra í óendanlegri flækju, ein lestin gengur í gegnum aðra, í allar áttir, endalaust. En þó rekst engin lestin á aðra, og ekkert hindrar ofsaferð þeirra, heldur halda þær jafnhraðan áfram með ljósfarma sína, og að auki myndir af öllu sýnilegu innan sjóndeildarhringsins.

Hér sjáum vér og enn þá meira furðuverk. Þetta ljós er nokkurskonar listasmiður, það dregur nákvæmar myndir af öllu því, er það snertir, og sendir þær í allar áttir, ekki hálfgjörðar aðeins, með hvítum lit og svörtum, heldur með öllum hugsanlegum litum. Því að hver geislastafur ljósbogans, hvert hár í þessum undra-busta ber með sér óendanlegt litasafn og blandar þeim saman. Þannig sendir ljósið í allar áttir hinar margbreyttu myndir af skýjum, hafi, engi blómum og andlitum.— Meira að segja dregur þær saman í örsmáar myndir, svo að augað geti gripið allt í senn, en þó svo greinilega, að vér getum séð manninn hinum megin við götuna og fjallið í fleiri mílna fjarlægð alveg í sinni réttu mynd.

Og ekki einungis málar ljósið þessar sí-hvarflandi myndir í sjóndeildarhringnum, heldur dregur það og upp varanlegar myndir fyrir ljósmyndasmiðinn. Þar dregur ljósið líking mannsins áður, en myndasmiðurinn getur tekið upp ritblý sitt, tekur mynd af öllu strætinu svo skjótlega, að fætur skeiðhestanna eru sumir á lopti á myndinni, og myndir þessar eru nákvæmari en nokkur myndasmiður gæti gjört þær. —Þá er og þolinmæði ljóssins við myndasmíðið aðdáanleg. Klukkustundum saman lætur stjörnufræðingurinn *negativ* plötu sína snúa mót hinum óskíru stjörnuþokum, og lætur svo ljósið draga á hana líking þeirra, skírar og nákvæmar, en eygja má í hinum bestu stjörnukíkirum. Þá er og flýtir þess, að taka myndir, undraverður. Stjörnufræðingurinn tekur mynd af sólunni á tuttugu-þúsundasta parti úr sekúndu,og getr þannig greint margt, er mannlegu auga hefði ekki verið mögulegt að ná, þannig vinnur þessi guðdómlega list ýmist hægt og seint, eða með feykilegum hraða og þó með ósegjanlegri nákvæmni.

En þó eru undraverk ljósmyndasmíðisins sem ekkert, í samanburði við litmyndirnar, er litmælirinn (spectroscope) sýnir. Þar halda hinir ósýnilegu geislastafir hinum smágjörvu strykum sínum alla þessa löngu leið frá sólu til jarðar, og þegjandi skýra þeir frá leyndardómunum við bygginguu sólar, af hvaða efni hún sé gjörð, og segja nákvæmlega, með hvaða hraða hún snýst um möndul sinn.

Þannig opinberast undraverk ljóssins að deginum til, allt til þess, er snúningur jarðar flytur oss á ný inn í skugga næturinnar aptur. Og engu minni verða undrin þá, heldur miklu stórkostlegri.

Sólin baðar þá tungl og jarðstjörnur í geislastraum sínum, svo að þær skína, sem sólir í hinu dimmbláa djúpi. Í hinu fjarlæga kerfi Júpiters getum vér þá greint skugga hnattarins sjálfs og tungla hans, og enn lengra í burtu sjáum vér hringa Satúrnusar, og sýnir þetta hvernig sólarljósið verkar allt í gegnum geyminn. Enn kemur ljósið langt handan yfir jarðstjörnur þessar, frá stjörnum, sem eru milliónsinnum lengra frá oss, en sólin, og flytur oss enn þá mikilvægari fregnir. Á þessum undra-öldum ferðast ljósið 100,000 mílur, á meðan þú stígur eitt fótmál og hefir verið á leiðinni með þessum ofsa hraða, ekki aðeins í 8 mínútur, eins og sólarljósið til vor, heldur árum og hundruðum jafnvel þúsundum ára saman. En á allri þessari löngu leið hafa þó þessir smágjörvu geislastafir aldrei gleymt erindi sínu, en rita það á sjónpípurnar og litmælirinn svo greinilega, sem vér læsum það þvert yfir götuna eða strætið í borginni. Þannig segja þeir oss frá samræmi því, sem ræður í alheiminum, frá því, hvernig skaparinn hitar upp heimana í öllu hinu óendanlega djúpi rúmsins, og hvernig hann enn þá talar frá miðsól alheimsins til ótölulegra sólnakerfa og mælir sitt hið hátignarfulla sköpunarorð: „VERÐI LJÓS.“

(Framhald næst.)

---

*BORGAÐ hafa „DAGSBRÚN“ I. ár.*

Jónas Jónsson, Árnes $0,50. Guðlaugur Magnússon, Árnes, $1,00. Jón Stefánsson, Gimli. $1,00. Hallson. N.D.: P. Skjöld, $1,00. Daníel Johnson $1,00. Guðbr. Erlendsson, $1,00. G. J. Hallson, $1,00. John Johnson, Gardar $1,00. Nikulás Þ. Snædal, Seamo $0.50. Guðný Sigmundsdóttir Seamo, $0,50. Páll Pálsson, Seamo $0,25.

---



---

Útsölumenn blaðsins biðjum vér svo vel gera, að endursenda það af blaðinu, sem þeir hafa ekki von um að seljist.

---

Hve nær sem kaupendur að „Dagsbrún“ skipta um bústað, eru þeir vinsamlega beðnir að senda skriflegt skeyti um það til G. M. Thompson.

---

*G. M. Thompson, er „business manager“ og féhirðir fyrir blaðið. Kaupendur snúi sér því til hans viðvíkjandi afgreiðslu blaðsins og borgun fyrir það. Utanáskrift til hans er Gimli, P. O., Man. Canada.*

---

„DAGSBRÚN“ kemur út einu sinni á mánuði hverjum, verð $1.00 um árið í Vesturheimi; greiðist fyrir fram——Skrifstofa blaðsins er hjá Magn. J. Skaptason, Gimli, Man. Canada.

*Prentuð hjá G. M. Thompson—Gimli.*